Gísli Egilsson

# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

7. ár. WINNIPEG, MAÍ 1892. Nr. 3.

## JESÚS OG NIKÓDEMUS.

(Jóh. 3.)

Eptir síra *Valdimar Briem.*

—o—

Af vesturhimni var hnigin sól; —
þar himins drottning af gullnum stól
var stigin í bláa silkisæng,
þar sveipaði nótt yfir dökkum væng;
en bak við hin svölu sængurtjöldin
í salnum stóra skein ljósafjöldinn;
þar logaði guðs á liljum hljótt,
svo ljúft og fagurt um þögla nótt.

Hver dvelur þar úti' um dökkva nótt
í dögg, meðan aðrir sofa rótt?
Hví firrist hann svefn og sætan blund?
Hví sefur hann ei um næturstund?
Hann liggur þar einn í lundi grænum,
og lokkarnir kvika í næturblænum;
en höfug af augum hníga tár,
sem himindaggir um ljósar brár.

Og þokan læddist og döggin draup; —

þar drottinn sjálfur í lundi kraup;
það sjálfur var mikli meistarinn,
er mælti þar hljótt við föður sinn.
En enginn heyrði þau orðin dýru,
er á þeir hvísluðust máli skíru;
þau bárust í næturblænum stillt, —
en brostu stjörnur svo hýrt og milt.

En fleiri þó voru' á ferli' en hann;
á ferli sá hann þar annan mann;
hann gekk þar svo ljett, hann læddist svo hljótt,
svo leynt hann fetaði' í þoku' og nótt.
þó kom hann og Jesú fjell að fótum
og fögrum kvaddi hann vinarhótum.
þar meistara' í Ísrael mátti sjá,
er máninn skein dýran guðvef á.

„Sit heill, þú meistari!“ mælti hann,
„um miðja nótt þig jeg loksins fann;
jeg sat um það eptir sólarlag,
jeg sízt þori' að koma' um bjartan dag,
því Faríseanna háð jeg hræðist,
í húmi nætur því einn jeg læðist.
Jeg veit þú ert guði föður frá,
því fýsti mig þig að heyra' og sjá“.

En Jesús svaraði sætt og kvað:
„þú sannlega getur rjett á það;
jeg sannlega' er guði sendur frá,
og sonur hins æðsta himnum á.
En endurfæðast þó hver einn hlýtur,
er himnanna náðarríki lítur;
hið eilífa líta enginn kann
af anda' og vatni' ef ei fæðist hann“.

„þú verður að endurfæðast fyrst,
ef fá viltu guðs í ríki vist.
þú undrast það, sem jeg segi þjer,
og sannlega dularfullt það er:

að yður byrjar að endurfæðast;
en eigi þarf lærdóm þann að hræðast,
því það er svo margt, er menn þreifa á,
en þó ei á neinn veg skilið fá“.

„Þú heyrir vindarins veðragný,
er veikum stráum hann þýtur í;
þú veizt eigi, hver eða hvaðan hann er
nje hvert hann aptur í burtu fer.
Sjá, þannig oss hulinn er guðs andi,
í oss þó verkar hann sístarfandi;
vjer heyrum hans þyt, vjer heyrum hans gný,
en honum ei sjálfum skiljum í“.

„Þú spyr sem forðum móðirin mín:
„Hve má það verða“? það spurn er þín.
En hún var svo ung, það veiztu vel, —
þú vitur meistari' í Ísrael.
En skiljirðu jarðnesk efni eigi,
hið æðra' ei skilurðu, þótt jeg segi.
En leyndardóm þann, sem æðstur er,
þó ætla jeg nú að birta þjer.“

„Svo elska minn faðir veröld vann,
að veröld sinn eigin son gaf hann,
svo hver og einn öðlist eilíft líf
og enginn glatist í minni hlíf.
Að dæma heim mig ei drottinn sendi,
en dauðann að sigra sterkri hendi,
og eilífri glötun frelsa frá,
svo fái menn ljósið guðs að sjá.“

„Nú ljósið af hæðum leiptrar hjer
og ljóma skæran um heiminn ber;
en mennirnir elskuðu myrkrið svart
þó meir en skínandi ljósið bjart.
Til ljóssins sá ei um síðir kemur,
er svörtu myrkranna verkin fremur.

Í ljósinu guðs sá ljósið sjer,
sem ljóssins verk hefur unnið hjer".

„Sjá, nóttin líður, og nálgast sól.
ó, Nikódemus, — þar haninn gól,
hann boðar daginn; ei blygðast þín
á björtum degi að koma til mín.
Þú myrkranna verk skalt hata' og hræðast,
en hræðast ei þarftu' um ljósið að fræðast;
því sjerhvað það, sem í guði' er gert,
það gjarna má verða opinbert."

Og eygló reis þar úr öldum hrein
og endurfædd yfir löndin skein;
þá lifnuðu blómin ljósi klædd,
í ljómandi döggum endurfædd;
og morgunroðinn þar ljúfur líður
í liminu grœna, hreinn og fríður.
Af vatni og anda allt vígt er hjer
og vott það um endurfæðing ber.



## KVÖLDMÁLTÍÐARSAKRAMENTIÐ.

Einmitt um þetta leyti ársins eru altarisgöngur tíðastar í söfnuðum vorum. Það er því ekki nema eðlilegt og rjett, að hið litla blað vort tali fáein orð til lesenda sinna um það efni. Í guðsþjónustum allra kristinna safnaða er nautn hinnar helgu kvöldmáltíðar háleitasta atriðið. Hvernig ástatt er með hið andlega líf í söfnuðunum, sjest opt einna bezt á því, hve almennt menn ganga til drottins borðs. Sjeu þeir fáir og fækki meir og meir, bendir það yfir höfuð á, að hið andlega líf sje í rjenun. En sjeu þeir margir og fjölgi stöðugt, er það hjer um bil áreiðanlegur vottur þess, að líf trúarinnar sje að glæðast í hjörtunum. Einhver gleðilegasti árangur af hinni kirkjulegu starfsemi vorri hjer er einmitt það, hve miklu almennari altarisgöngur í söfnuðum vorum eru nú að verða, en þær voru

hjer fyrst. Einhverjar dýrðlegustu stundir, er vjer höfum lifað, var við guðsþjónustur safnaða vorra á síðastliðinni páskahátíð, er kirkjurnar voru svo fullar af fólki, að fleiri máttu ekki inn komast, og lang-flest af öllu þessu marga fólki kraup með hrærðum tilfinningum við altari drottins — í mörgum tilfellum foreldrar með fullorðin börn sín í kringum sig, — til þess þar að fá nýja yfirlýsing um náð drottins fyrir Jesúm Krist og nýjan styrk fyrir hið andlega líf sitt. Þær stundir voru vissulega hin dýrðlegustu laun fyrir margra mánaða slítandi erfiði og áreynslu.

Hið íslenzka kirkjufólk vort hefur almennt djúpa lotning fyrir heilagleik kvöldmáltíðarinnar. Margir bera það fyrir, að þeir finni sig ekki rjett undir það búna að ganga til drottins borðs; þess vegna vilji þeir ekki gjöra það. En því meir, sem vjer finnum til synda vorra og óverðugleika, því hæfari altarisgestir erum vjer. Hið eina, sem gjört getur kristinn mann óhæfan altarisgest, er það, ef hann hefur ekki snúið sjer til guðs og beðið hann um líkn og fyrirgefning, eða ef hann finnur einhverja þá synd í fari sínu, sem hann vill ekki leggja niður. Enginn, sem svo er ástatt fyrir, ætti að hugsa til að ganga fram fyrir drottin og neyta heilagrar kvöldmáltíðar fyr en hann fyrir syndajátning og bæn til guðs hefur komizt í sátt við hann. Meðan hann gjörir það ekki, er hann stöðugt að færast lengra og lengra frá guði, og eptir því sem lengur líður verður honum apturhvarfið örðugra. Tilfinningin fyrir því að vera óverðugur altarisgestur á því að reka hvern kristinn mann til þess með aðstoð guðs heilaga anda, að undirbúa hjarta sitt þannig, að hann finni hjá sjer þörf og hvöt til að neyta hinnar helgu kvöldmáltíðar. Hvort einstaklingnum er fullkomin alvara með sinn kristindóm, sjest einmitt á því, hvort hann einnig í þessu atriði vill hlýða frelsara sínum. Hið síðasta, sem hann gjörði: — innsetning heilagrar kvöldmáltíðar. Síðasta bænin til lærisveinanna: — „Gjörið þetta í mína minning". Allir viljum vjer uppfylla hina síðustu bæn ástvina vorra. Vjer álítum það heilaga skyldu vora. Skyldum vjer þá ekki vilja uppfylla hans síðustu bæn? Og hver var tilgangur hans með þessa heilögu at-

höfn? Sá, að mynda það einingarinnar band milli sín og lærisveina sinna, er sterkara væri en öll önnur bönd, — nýtt náðarmeðal, öflugra en öll önnur, til að varðveita mennna í náð hins himneska föður. Sá, sem ekki gengur til drottins borðs, vanrækir þetta náðarmeðal, hrindir þessu bandi einingarinnar frá sjer, hirðir ekki um hina síðustu bæn síns himneska ástvinar.

Sumt af trúuðu safnaðarfólki voru hefur enn ekki fengið sig til að neyta kvöldmáltíðarinnar. Tímalengdin, sem liðið hefur síðan það hefur gengið síðast til drottins borðs, er orðin svo mikil, að því finnst svo erfitt að byrja. það hefur hugmynd um einhvern alveg sjerstakan undirbúning, er nauðsynlegur sje. Sumum finnst, þeir yrðu að vera nærri því heilagir, ef þeir ættu að geta fengið sig til að ganga til altaris. En það er misskilningur. því betur sem samvizka vor er vakandi og því næmari tilfinning sem vjer höfum fyrir synd og sekt, því hæfari gestir erum vjer við drottins borð. Og undirbúningurinn er í rauninni ekkert sjerstakur. það er nákvæmlega sami undirbúningurinn, sem hver kristinn maður einlægt þarf að hafa. Á hverjum degi á hann að snúa sjer til guðs og fá hjá honum fyrirgefning fyrir brot og yfirtroðslur. Ó, að allt hið trúaða safnaðarfólk vort vildi hugleiða þetta fyrir augliti drottins og biðja hann um djörfung til að hlýða hans vilja einnig í þessu atriði!

Heiman af fósturjörð vorri hafa oss lengi borizt þau sorgartíðindi, að þeir sjeu nú hin síðari árin einlægt að verða færri og færri í söfnuðunum, sem neyta kvöldmáltíðarinnar. Og nú sjáum vjer því slegið föstu, að svo sje í raun og veru, af kirkjulegu leiðtogunum heima, án þess talað sje um, hvernig á slíku megi ráða bót. Einmitt þetta atriði er þó lífsspursmál fyrir safnaðarlífið og trúarlífið hvervetna meðal kristinna manna. Eitt af aðalatriðunum á prógrammi hinnar nýju kirkjulegu lífshreyfingar á fósturjörð vorri þarf um fram allt að vera, að vekja og glæða þörfina til að ganga til drottins borðs aptur hjá söfnuðunum. Prestarnir eru ráðsmenn náðarmeðala drottins. Vopn þeirra eru guðs orð og hin heilögu sakrament. þegar þeir

missa eitthvað af þeim vopnum úr hendi sjer, er ekki von að mikið verði ágengt. Samvizkusamur prestur, er sjálfur hefur lifandi tilfinning fyrir þýðing kvöldmáltíðarinnar, getur með drottins hjálp mjög miklu til leiðar komið í þessu efni sem öðrum meðal safnaða sinna.

Samkvæmt fagurri siðvenju kirkju vorrar ganga ungmenni safnaðanna í fyrsta skipti til drottins borðs um leið og þau eru fermd. Þá er presturinn þeim handgenginn; þau eru þá eins og börnin hans og ætíð síðan er eitthvert einingarinnar band milli prestsins og þeirra ungmenna, sem hann hefur fermt. Sjerhver prestur ætti því að einsetja sjer að veita því nákvæma eptirtekt, hvort ungmennin, sem hann hefur sjálfur fermt, halda áfram að ganga til guðs borðs. Og þegar hann verður þess var, að þau koma ekki, þarf hann að tala við þau og áminna þau um að gleyma ekki sinni góðu játning. Þar sem safnaðarlífið er lengst á leið komið í landi þessu, er það álitið skylda prestsins, að tala við alla þá safnaðarlimi, sem ekki neyta kvöldmáltíðarinnar, og hætta ekki fyrr en hann hefur vakið þörfina í hjarta þeirra. Þar er það nefnilega komið inn í meðvitund manna, að það sje hin brýnasta skylda hvers safnaðarlims að ganga til altaris. Sálusorgarahugmyndin kemur þá fyrst fullkomlega í ljós, þegar presturinn ber þannig lagaða umhyggju fyrir hverjum safnaðarlim. Opt verða ungmenni safnaðarins hinum eldri til fyrirmyndar í þessu efni. Foreldrar, sem ekki hafa gengið árum saman til altaris, fylgja elzta barninu sínu, þegar það neytir kvöldmáltíðarinnar í fyrsta sinni eptir ferminguna. Það þarf sí og æ að takast fram við hina yngri, að það er engin afsökun fyrir þá, þótt foreldrar þeirra eða aðrir aðstandendur vanræki þessa skyldu sína. Þegar börnin eru nógu staðföst til að koma til drottins borðs í hvert skipti, sem þau eiga þess kost, verður það opt til þess, að foreldrarnir fara að fylgja hinu lofsverða dæmi þeirra.

Ó, hve dýrðlegt fyrir hina yngri, að geta orðið fyrirmynd hinna eldri! Hve dýrðlegt fyrir börnin, að vitna um frelsarann fyrir foreldrum sínum

## *KIRKJUÞINGIÐ 1892.*

Eins og auglýst var í seinasta nr.i „Sam.", þá verður kirkjuþingið í sumar haldið að Garðar í Norður-Dakota 24. júní. Það er orðið örstutt til kirkjuþingsins, enda eru ýmsir af söfnuðum kirkjufjelagsins farnir að búa sig undir það með því að kjósa sína kirkjuþingsfulltrúa.

Það er alkunnugt, að forseti kirkjufjelagsins, síra *Jón Bjarnason*, hefur verið mjög hættulega veikur um langan tíma. Hann hefur legið rúmfastur síðan um nýár í vetur. Það hefur verið þungbær reynslutími fyrir sjálfan hann, söfnuð hans og allt kirkjufjelagið í heild sinni. Fyrir nokkru er, lof sje guði, orðin breyting til batnaðar á þessum langvinna og þungbæra sjúkdómi. Síra Jón er á batavegi, og vjer höfum þá von til guðs, að hann komi aptur til fullrar heilsu, áður en mjög langt líður. En því miður verður batinn varla svo fljótur, að síra Jón geti mætt á þessu kirkjuþingi, sem nú fer í hönd. Að öllum líkindum verður kirkjuþing þetta að fara á mis við persónulega návist þess manns, sem frá því fyrsta hefur verið lífið og sálin í kirkjufjelaginu bæði á kirkjuþingum og utan þeirra. Sá skaði verður auðvitað ekki bættur. Það skarð fyrir skildi í þingmannaflokknum verður á engan hátt fyllt.

Vanheilsa og fjarvera síra Jóns kastar dapurlegri sorgarblæju yfir kirkjuþingið 1892. En huggun vor er sú von, að vjer höfum síra Jón heilan heilsu á kirkjuþinginu 1893. Vjer vonum fastlega, að guð reisi hann á fætur *löngu fyrir þann tíma* og gefi honum aptur fulla krafta til að halda áfram sínu blessunarríka starfi í þjónustu kirkjunnar. Vanheilsa þess manns, sem mest allra manna hefur barizt fyrir málefnum kirkjufjelagsins, ætti að hvetja alla meðlimi þess til að leggja fram alla krafta sína. Vjer megum ekki hætta bardaganum og flýja, þótt foringinn geti eigi um stund gengið sjálfur í orustu. Vjer megum ekki hætta róðrinum og leggja árar í bát, þótt formaðurinn geti ekki um stund handleikið stýrissveifina. Vjer fylgjum sama merkinu og áður. Vjer höldum skipinu í sama horfinu og áður. Allir söfnuðir kirkjufjelagsins leggi nú fram

alla krafta sína og sendi eins marga erindsreka á kirkjuþing þetta, eins og þeir framast hafa rjett til.

Erindsrekar safnaðanna eiga að leggja fram á kirkjuþinginu skýrslur um fólkstal og sunnudagsskólahald í þeim söfnuðum, sem þeir mæta fyrir. Sömuleiðis eiga þeir að koma með það fje, sem söfnuðir þeirra leggja í kirkjufjelagssjóð.

Á kirkjuþinginu verða gjörðir upp reikningar „Sam.", eins og venja er til. Allir, sem skulda blaðinu, ættu að borga því skuldir sínar fyrir kirkjuþing. Þessu mega kaupendur „Sam." alls eigi gleyma.

Reikningar fyrir skólasjóð kirkjufjelagsins verða einnig lagðir fram á kirkjuþinginu. Öllum samskotum til skólasjóðsins fyrir þetta ár ætti að vera lokið fyrir kirkjuþing.

Meðan kirkjuþingið stendur yfir, verður kirkjan að Garðar vígð.

## VORIR UNGU NÁMSMENN.

Í mánuðunum maí og júní eru vorprófin haldin við alla hina æðri skóla landsins. Þá útskrifast þeir, sem lokið hafa námi sínu, en hinir þokast upp á við í bekkjunum. Þúsundum saman af ungum mönnum útskrifast hjer í þessu skólanna landi á hverju vori, og ganga þá flestir þeirra þegar yfir í þá lífsstöðu, sem þeir hafa varið æskuárum sínum til að búa sig undir. Enn þá er það raunalega fátt af íslenzkum ungmennum, sem gengið hefur menntaveginn hjer í landinu. Smátt og smátt er vonandi, að það fari í vöxt, og væri það mikið gleðiefni. Nokkra fyrirfarandi vetur hafa fáeinir ungir menn gengið hjer á æðri skóla, og er vonandi, að þeim endist öllum aldur og þrek til að ljúka námi sínu. Tveir þeirra eru á lútersk-um skóla, er *Thiel College* nefnist, í bænum *Greenville* í Pennsylvanía-ríkinu. Heitir sá eldri þeirra Þorkell O. Sigurðsson og útskrifast hann þar nú í þessum mánuði, ef guð lofar, og verður *Baccalaureus Artium* (= Cand. phil.). Hann hafði gengið 4 ár á latínuskólann í Reykjavík, áður en hann kom hingað til landsins. Hinn yngri skólabróðir

hans þar austur frá heitir Stefán Pálsson, bróðir þeirra Magnúsar og Vilhelms Pálssona í Winnipeg. Hann verður nú fluttur við þetta próf upp í *College*-deildina við skólann og að fjórum árum liðnum verður hann einnig, ef guð lofar, *Baccalaureus Artium*. Báðum hefur þeim gengið námið einstaklega vel.

Tveir aðrir ungir Íslendingar hafa gengið á lúterskan guðfræðisskóla í Chicago, þennan síðastliðna vetur. þeir heita Jónas A. Sigurðsson og Björn B. Jónsson; hinn síðarnefndi er sonur Björns Jónssonar, bónda í Argyle, bróður Kristjáns heitins Jónssonar, skálds. þeir tóku báðir sitt fyrsta próf seint í maí. Kennarar þeirra hafa lokið sjerstöku lofsorði á þá fyrir góða hæfilegleika og framúrskarandi kapp og ástundun við námið, og hafa þeir þótt skara fram úr hinum öðrum lærisveinum við sama skólann.

Enn hafa þrír piltar íslenzkir stundað nám við *Gustavus Adolphus College* í bœnum St. Peter í Minnesota. það eru þeir Tómas H. Jónsson, sonur Jóns Björnssonar frá Hjeðinshöfða, bónda í Argyle, og Runólfur Marteinsson, systursonur sira Jóns Bjarnasonar; þeir hafa báðir verið einn vetur í *College*-deildinni við skólann og eiga því eptir þrjá vetur. Hinn þriðji er Brandur J. Brandsson, sonur Jóns Brandssonar, bónda að Garðar. þetta var hans fyrsta ár við skólann og var hann að mestu leyti í efsta bekk undirbúningsdeildarinnar, en að nokkru leyti í *College*-deildinni. Við nýafstaðið próf við þennan skóla fengu þeir allir framúrskarandi góða vitnisburði. það er vonandi, að þeir haldi allir áfram námi sínu þarna við þennan ágæta skóla þangað til þeir útskrifast.

þeir eru ekki margir, að eins 7. En guð og gæfan fylgi þeim, svo þeir geti orðið nýtir menn, sjálfum sjer og þjóð sinni til gagns og sóma.

---

FERMINGIN

er nú um garð gengin í flestum söfnuðum vorum. Í Garðarsöfnuði fór fermingin fram á skírdag. Voru þar fermd

10 ungmenni. Í Víkursöfnuði voru fermd á föstudaginn langa 25 ungmenni. Í kirkju Frelsis- og Fríkirkju-safnaða fermdi síra Hafsteinn Pjetursson 1. sunnud. eptir páska 27 ungmenni. Síra Steingrímur Þorláksson hefur alls fermt 20 ungmenni í sínum söfnuðum. Á hvítasunnudag voru 25 ungmenni fermd í Winnipegsöfnuði af síra Hafsteini Pjeturssyni. Í Pembina-söfnuði fór ferming fram 21. þ.m.; þar voru 6 ungmenni fermd. Í Vídalínssöfnuði hefur enn ekki verið fermt, en þar verða ein 12 ungmenni fermd einhverntíma á sumrinu, ef guð lofar. Alls verða þannig fermd 125 ungmenni í söfnuðum vorum á þessu ári.

## BÆNARSÁLMUR.

Eptir *Bjarna Jónsson.*

—o—

Ó, jeg vil, guð minn! sá því góða sæði;
æ, sendu mjer þinn anda, að hann mig fræði,
að leitt jeg geti vilta á rjetta veginn —
það vil jeg feginn.

Að frætt jeg geti alla, er orð þín vilja
af öllum huga varðveita og skilja;
að þrýst jeg geti þeim, í nótt er búa
til þín að snúa.

Og þegar blessuð börnin hjá mjer standa,
ó, blíði faðir! sendu mjer þinn anda,
að kennt jeg geti, guð minn! þeim að skilja
þinn góða vilja.

Að stafróf þitt, sem öllu er æðra og fegra,
sem allri heimsins speki er nauðsynlegra,
þeim innrætt fái' eg, út af þínum vegi
svo aldrei beygi.

Ó, blessa drottinn, ávöxt iðju minnar,
lát aldrei þrjóta strauma náðar þinnar;
en fremst jeg bið: ó, styrk þú mig að standa
í stríði og vanda.

## TVEIR SPÁMENN.

Spámennirnir eru ekki allir útdauðir enn. Margir þeirra eru samt að ýmsu leyti líkari spámönnum Baals en spámönnum Jehóva. Spár þeirra virðast hafa fremur lítið gildi. Opt eru forvígismenn vantrúarinnar að leiða spár að því, hve skammlífur kristindómurinn muni verða. þeir fullvissa áhangendur sína um, að trúin muni þá og þegar deyja út í hjörtum manna og lærisveinar Krists innan skamms hverfa af yfirborði jarðarinnar. Um síðastliðin aldamót átti vantrúin einn slíkan spámann á Frakklandi. Hann hjet *Voltaire.* Hann ljet það vera aðal-markmið lífs síns, að útrýma kristindóminum. Eitt sinn flutti hann fyrirlestur fyrir fjölda manns. Hann hampaði þá biblíu einni framan í mannfjöldann, að sagt er, og kvað þetta vera orðna úrelta og útslitna bók. Í bókasöfnunum mundi hún verða látin standa á bak við aðrar bækur, eptir þann dag, og þar mundi hún að eins af tilviljun verða tekin ofan og opnuð af fornfræðingum einum. Í *Ferney,* dálitlum bæ á Svisslandi, þar sem hann dvaldi síðustu ár æfi sinnar, stofnaði hann prentverk mikið, og ljet hann þaðan út ganga fjölda af bókum og flugritum með nöprustu árásum gegn kirkjunni og biblíunni. En hvernig hefur spádómur hans rætzt? Eptir dauða hans voru biblíur prentaðar í prentsmiðjunni hans. þegar hann dó, hafði heilög ritning að eins verið þýdd á 50 tungumál. Nú er hún til á meir en 300 tungumálum, og geta nú fjórir fimmtu hlutar mannkynsins lesið guðs orð á sínu eigin móðurmáli, þar sem það hefur þýtt verið á öll helztu tungumál heimsins. Brezka og erlenda biblíufjelagið gefur út árlega yfir 4,000,000 eintaka af biblíunni og ýmsum hlutum hennar. Ameríkanska biblíufjelagið útbreiðir hjer í landinu hálfa aðra miljón ár hvert og telur svo til, að það hafi útbreitt 50 miljónir síðan á dögum *Voltaires.* Prússneska biblíufjelagið selur af hendi 80,000 eintök af gamla og nýja testamentinu á hverju ári. Og auk þessara fjelaga eru mý-mörg önnur hvervetna um hinn kristna heim. Svona hefur sá spádómur rætzt!

*Ingersoll*, hinn nafnfrægi vantrúarmaður og guðlastari, fæst ekki svo sjaldan við það að vera spámaður, en honum hefur hingað til ekki heppnazt neitt betur en hinum andlega föður hans, *Voltaire*. Fyrir tíu árum síðan ljet hann þann spádóm útganga, að eptir þann áratug, sem þá var að byrja, mundu verða fleiri leikhús byggð en kirkjur Sá áratugur, er nú þegar liðinn og það er fróðlegt að sjá, hvernig spádómurinn hefur rætzt. Ein einasta kirkjudeild, Meþódista-kirkjan, reisir á hverjum degi ársins fjögur drottins hús; eitt á hverjum sex klukkustundum sólarhringsins, bæði nótt og dag; eða eitt á hverjum þremur klukkustundum meðan dagsljósið endist. Ein einasta fremur lítil kirkjudeild byggir þannig 1460 nýjar kirkjur á ári. Allar aðrar deildir vorrar kristnu kirkju eru ótaldar, og þær eru fjölda margar, eins og öllum er kunnugt. Það lítur út fyrir, að margir áratugir verði að líða, þangað til leikhúsin verða jafn-mörg og kirkjurnar, enda hefur Ingersoll verið minntur á það æði opt, hve ljelegur spámaður hann væri. „En svo mæla börn sem vilja“.



KRISTNIBOÐ MEÐAL GYÐINGA hefur aldrei verið rekið með eins miklu afli og nú. Nýlega hefur verið safnað nákvæmum skýrslum yfir kristniboðið meðal hinnar útvöldu þjóðar á þessari öld og samkvæmt þeim hafa 130,000 Gyðingar tekið kristna trú og verið skírðir síðan 1800. Í flestum kristnum löndum, þar sem Gyðingar búa, eru kristniboðsfjelög sístarfandi að því, að leiða þá til trúarinnar á frelsarann. Einkum á þetta sjer stað á Englandi og Þýzkalandi. Enginn einn maður hefur hlynnt eins mikið að kristnun Gyðinga og hinn þýzki vísindamaður og prófessor í guðfræði *Delitzsch*, látinn fyrir rúmu ári síðan. Hann þýddi nýja testamentið á svo fagurt hebreskt mál, að Gyðingum þykir unun að lesa. Af þeirri þýðing hafa selzt meir en 70,000 eintök meðal Gyðinga og hefur þessi útbreiðsla nýja testamentisins meðal þeirra orðið hin öflugasta hjálp fyrir kristniboðið. Árið 1878

hafði Gyðinga-kristniboðsfjelagið í Lundúnum snúið 3,574 Ísraelsmönnum til kristinnar trúar. Einn kristniboði á þýzkalandi sneri 32 á einu ári. Margir þessara manna, sem upphaflega hafa verið Gyðingar, en seinna snúizt til kristni, hafa unnið sjer mikla frægð sem vísindamenn bæði í kirkjunni og utan hennar. Á þýzkalandi mætti nefna þá *Neander* og *Philippi*, í Danmörk *Kalkar*, í Noregi *Caspari*, nú nýlátinn, á Englandi *Edersheim*, *Saphir* og *Herschel*.

## FRÁ BRÆÐRUNUM HEIMA.

Eptirfylgjandi kafli úr brjefi frá merkum prófasti heima á Íslandi vitum vjer, að muni gleðja lesendur „Sam.“: „Ekkert er rjettara, en að vjer íslenzkir prestar ljetum til vor heyra, og jeg vona nú, að það verði meira um það framvegis en verið hefur. það dugar ekki, að dást að framgöngu annarra og sitja hjá og leggja þeim ekkert lið. Að vísu er jeg ekki hræddur um, að kristindóminum sje ekki borgið, meðan Kristur hefur hjá ykkur aðra eins talsmenn og hinir núverandi leiðtogar íslenzka kirkjufólksins fyrir vestan eru. En þið eigið í stríði og það vandasömu stríði; þið eruð fámennir og við getum sannarlega ekki setið lengur hjá, — ættum fyrir löngu að hafa gengið í lið með ykkur, og jeg segi ykkur það satt, að mörgum íslenzkum presti hefur hitnað, sem þó hefur þagað; hann hefur í anda verið kominn fram á vígvöllinn, en hefur þó hörfað til baka. Af hverju? Ef til vill af því, að vjer, sem svo óvanir erum baráttunni, viljum sjá aðra berjast, til að vita, hvernig eigi að fara að því.— Skólamálið vona jeg, að eigi hjer marga talsmenn, enda þarf það að vera. En það er ekkert líf í því, nema það sje almennt, því fæstir *geta* mikið. Almenningur mundi eflaust sinna því, ef talsmenn væru góðir. Áður en þetta næsta sumar líður vona jeg að geta sagt yður meira um það“.

PRÓFESSOR C. P. CASPARI

doktor í guðfræði, ljezt í Kristjaníu í Noregi 1. apríl síðastl. Hann var, ef til vill, lærðasti guðfræðingur, sem verið hefur á Norðurlöndum síðari hlut aldarinnar og enginn hefur verið jafnfrægur í heimi vísindanna. Hann var fæddur árið 1814 og hefur því haft átta um sjötugt. Hann var borinn og barnfæddur á þýzkalandi og fjekk þar alla sína guðfræðislegu menntun. Foreldrar hans voru Gyðingar og var hann uppalinn í þeirra trú. En við háskólann í *Leipzig* snerist hann til kristindómsins og var skírður 1828. Í nokkur ár lifði hann einungis fyrir vísindin, og árið 1842 varð hann doktor í guðfræðinni. 1847 var honum veitt kennaraembætti við háskólann í Kristjaníu fyrir milligöngu Gísla Jónssonar, prófessors, og árið eptir tók hann að halda þar fyrirlestra. Hvað eptir annað reyndu þýzku háskólarnir að ná honum til sín (Erlangen 1867), en hann hafnaði þeim tilboðum ætíð, hversu glæsileg sem þau voru. Síðustu 25 árin hefur hann að meira og minna leyti ferðazt í þarfir vísindanna og haft til þess heiðarlegan styrk bæði af háskólafje og úr fjárhirzlu ríkisins. Frægastur er hann fyrir rannsóknir sínar viðvíkjandi sögu hinnar postullegu trúarjátningar. Sá, sem þetta ritar, var svo heppinn að njóta kennslu hans um tveggja ára tíma, og mun hann aldrei gleyma hinum gamla, fjöruga manni, sem virtist verða gagntekinn af óumræðilegum sársauka, þegar hann var að tala um refsidóma drottins, er gengu yfir hina útvöldu þjóð, og útskúfunar-lögmálið, sem hún hefur orðið að hlýða. En aptur svo sigri hrósandi, að hann naumast rjeð sjer fyrir fögnuði, þegar hann útlagði spádómana og fyrirheitin um hann, sem fæddist Gyðingur, en varð ljós heimsins. Það var almennt viðkvæði við háskólann, að þó maður hefði ekki annað af honum að segja en að hafa heyrt hann lesa upp einn af Davíðssálmum á hebresku, hefði maður þegar mikið af honum lært.



**Mannslát.** Síra *Stefán Thorarensen*, uppgjafaprestur frá Kálfatjörn, andaðist í Reykjavík 26. apríl þ. á.

Síra Stefán var einn af merkustu prestum Íslands. Hann var einkennilegt og gott sálmaskáld. Auk þess var hann mjög söngfróður maður. Báðir þessir hæfilegleikar hans komu að beztu notum. Hann var aðalmaðurinn við endurskoðun sálmabókarinnar 1871. Hann var og í þeirri nefnd, sem bjó til nýju sálmabókina. Í þeirri bók á hann allmarga góða sálma, frumsamda og þýdda. Og hann hefur óefað átt bezta þátt í öllu því, er snerti val sönglaganna o. s. frv.

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann, þriðji ársfjórðungr 1892.

1. lexía, sd. 3. júlí: Himnaför Jesú Krists (Pg. 1,1-12).
2. lexía, sd. 10. júlí: Sending Heilags Anda (Pg. 2,1-12).
3. lexía, sd. 17. júlí: Fyrsti kristinn söfnuður (Pg. 2,37-47).
4. lexía, sd. 24. júlí: Pjetur læknar haltan mann (Pg. 3,1-16).
5. lexía, sd. 31. júlí; Pjetur og Jóhannes fyrir ráðinu (Pg. 4,1-18).

---

Kaupendr „Sam." í Minnesota gjöri svo vel, að greiða borgun fyrir blaðið til séra Steingríms Þorlákssonar í Minneota, sem góðfúslega hefir lofað að veita henni móttöku.

Fr. J. Bergmann.

Eins biðr séra Hafsteinn Pétrsson „Sam." að geta þess, að Mr. Björn Skagfjörð hafi tekið að sér alla fjárheimtu í Þingvallanýlendu.

Fjárheimtu fyrir „Sam." hefir séra Fr. J. Bergmann í Dakota, Páll S. Bardal í Winnipeg og Selkirk, séra Hafsteinn Pétrsson í Argyle-nýlendu og Jóhann Briem í Nýja Íslandi. — Annars sé peningar til „Sam." sendir *M. & W. H. Paulson*, 162 11th Str. N., Winnipeg.

Á Íslandi borgi allir útsölumenn „Sam." til bóksala Sigurðar Kristjánssonar í Reykjavík.

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, Sigurðr Kristofersson, H. Hermann, Jóh. Briem.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.